[Þess íslendska evangeliska smábókafélags rit Nr. 19.]

# Syndaranum vísad til sáluhjálparans,

útlagt úr engelsku af útgef.

Sjáid þad Guds lamb, sem burtuber heimsins syndir (Joh. 1, 29.)

Þessi eru ord Jóhannesar skírara, og þaug vóru af honum tolud í tilliti þeirrar spurníngar, sem gydíngar framsettu fyrir hann, seigjandi: "hvør ert þú?" uppá hvørja sá audmjúki spámadur svaradi: «ecki er eg Christur", og næsta dags þar eptir, þegar hann sá Jesúm til sín koma, hrópadi hann og sagdi: «sjáid lambid Guds, sem burtuber heimsins syndir!" Frá þeim tíma endurlausnarinn skildi vid heim þennan, hefur einginn madur sjed hann med líkamligum augum; en hvør sem trúir á hann, sjer hann med augum trúarinnar; og sérhvør sem þannig sjer soninn og á hann trúir, hafa eilíft líf (Joh. 6, 40.) Jesús Christur sjálfur hefur yfir þeim blessun lýst

„sem ecki sjá, en trúa þó" (Joh. 20, 29.); en í hvørju þetta blessunarríki salid sé, finst vel útmálad af postulanum Petri, þegar hann seigir: „hvørn þér ecki sied hafid, og þó elskid, og nú á hann trúid, þó þér sjáid hann ecki, þér munud gledjast einum óumræðiligum og dýrdarsamligum fögnudi" (1 Pet. 1, 8.) Það er vissuliga ein stór nidra gjørd svo hádýrdarligu skodunarefni, sem Christur er, ad sjá hann, og dást ecki ad hønum; ad sjá hann, og elska hann ecki. Sannarliga eru addáan, elska, eptirlæti og fögnudur hjartna vorra, altsaman bodord trúarinnar. Látum oss þarfyrir gaumgjæfa, hvílíka yfirvættis upparligleika er hjá Christo ad finna, sem auga trúarinnar, hjá einum kristnum, hafi orsøk ad sjá og addást!

Í fyrsta máta: „Gud var í Christo" seigir ritníngin (2 Cor. 5, 19.) Hann var „Gud auglýstur í holdinu" (1 Tim. 3, 16.) O! einn Gud holdi klæddur er stærsta heimsins furduverk. Hér er það óendanliga og endanliga hvørt ødru sameinad; skaparinn og skepnan ordin ad einni persónu. Það er merki vanmættis í smindunarkraptinum ad dást ad lítilvægum hlutum; en dármenskuteikn ad dást ei ad stórum hlutum. Mørg kraptaverk vóru framinn af Christo í holdinu, en það stærsta af øllum kraptaverkum var, ad hann „gjørdist hold, og bjó med oss" (1 Joh. 1, 14.)

Í annan máta: «Christur er speki Guds" (1 Cor. 1, 24) já «í honum eru huldir allir fjársjódir vísdómsins og þeckíngarinnar" (Col. 2, 8.) Aldrei hefur vísdómur Guds auglýst sína dýrdarligu geisla, fyrir augum manna og eingla, í nockru verki, frá tímans upphafi, eins dásamliga, sem hann gjørdt hefur med því, ad ágvarda Christum til ad vera eitt Guds lamb, og fornfæríngar offur fyrir syndir heimsins. Sjáid þá lambid Guds! og sjáid í honum undir eins þann óransakanliga vísdóm Guds í því ad frelsa syndarana, sem á hann trúa, frá allri hásfasemd syndarinnar, og þó eingu ad sídur, ad gjøra syndina enn þá hrædiligri, í syndaranna augum, med máta þeim, sem hann brúkadi til ad frelsa oss frá henni, heldur enn møguligt verid hefdi, med nockurri annari adferd. Sjáid dýpt þess óendanliga vísdóms, í því ad laga læknisdóm syndarinnar, eptir orsøk sjúkdómsins. Sjúkdómurinn var innifalinn í drambsemi mannsins, en lækníngin var falin í audmýkíngu Guds sonar. Madurinn sóttist eptir ad verda sem Gud, og þad sama vard honum til fordjørfunar; Gud auglýstist í holdinu, og vard fundinn í líkíngu syndugs manns, og þad sama vard manninum til frelsunar. O dýpt Guds vísdóms, sem út af misfir og eydileggíngu vorrar upphafligu vegsemdar, tók sér tilefni ad uppreisa oss aptur til eins lángt

betra ástands, og setja oss í það, á einn miklu óhultari hátt, enn vér í það fyrra settir vórum.

Í þridja máta: sjáum kjærleika Guds í Christo! Sjáum hann, sem er lambid Guds, og sjáum í hönum Guds kjærleika med þeirri hærstu og allra hátignarligustu auglýsíngu, sem nockurntíma skéd hefur edur ské kann, í þessum heimi; því „þarí er kjærleikinn, ecki ad vér elsk. udum Gud, heldur ad hann elskadi oss og sendi sinn son, til ad vera fridþægíngarfórn, fyrir syndir vorar" (1 Joh. 4, 10.) O, í þessu er kjærleiki Guds til syndaranna innifalinn! Gud auglýsir ad sönnu kjærleika sinn til vor í því dagliga ad veita oss forsjá, vernd, frelsi og endurnæríngu. Ad vér njótum heilsu, medan adrir stynja undir pínandi verkjum, það er ad vísu kjærleiki; ad vér höfum braud ad eta, midt í því adrir ætla ad deya af húngri, það er ad sönnu kjærleiki. O! en það, af hafa Christum til eins fridþægíngar. offurs fyrir syndir sínar, midt í því einglarnir sem í syndina fellu, eru hjálparlausir látnir, í sínu ástandi, hér er sannarliga einn ómælanligur kjærleiki falinn. Já, allur sá kjærleiki, sem sig í ljósi lætur í Guds margháttudu forsjón fyrir kjör. um vorum í þessum heimi, í tilliti vorrar heilsu, vorrar stjettar, vorra skyldmenna og ótéljandi end. urnæríngar medala, er sannarliga eckert ad reikna í samburdi vid þennan kjærleika. Hér í er sá fullkomni kjærleiki innifalinn!

Í fiórda máta siáum vér í Cristo hjartanligustu medaumkun Guds yfir vesælum syndurum. Svo sem Christur var sú fyrirheitna Guds miskunsemi (Luc. 1, 72.), sá hösudstycki hans guddómligu miskunar, svo er hann líka sá farvegur, giegnum hvörn allir straumar Guds miskunar flóa án aflats, til mannanna sona (Jud. v. 21) Miskunsemi Guds til eilífs lífs, edur hans frelsandi miskunsemi, er oss til handa áqvordud, einúngis gégnum Jesúm Christ. O! siáid þá lambid Guds! eitt lamb tilsett af þeirri forundrunarverdu Guds miskun, til ad verda forlíkunarkórn vegna vor mannanna, midt í því eckert forlíkunarmedal var áqvardad þeim föllnu einglum. Þetta er það lamb Guds, til hvörs ad allar lögmálsins fórnir, sem eptir kyrkjulögum Gydínga tídkudust, sitt tillit hösdu, og af hvörrju þær tóku allan sinn krapt og gildi. Páskalambid svovel sem það dagliga fórnarlamb var bædi skuggi og fyrirmind uppá þetta Guds lamb. Siáum hvílíka persónu Gud áqvardad hafdi til einnar fórnfæríngar, til ad burtutaka syndir heimsins! Jesús Christur, sonur Guds, var krossfestur fyrir oss; hann úthellti sínu dýrmæta blódi, og gaf sitt líf til fornaroffurs, Gudi til sætleiks ilms, „svo hvör sem trúir á hann, ecki skuli fyrirfarast, heldur hafa eilíft líf" (Joh. 3, 16.) — Siáum! eins og adreisíng blóds páskalambsins á dyrustafi Jsraels manna, var það sem vardveitti

þá frá mordeinglinum, svo skal blódid Christs, þess sanna Guds lambs, sem fyrirmindad var med páskalambsins blódi, einnig frelsa alla þá, sem á hann trúa, frá þeirri tilkomandi reidi. Svoleidis hefur Christur sonur Guds komid í veg fyrir þann eydileggjanda eingel Guds lagamáls, sem framqvæma átti hans réttlætis hegníngu á syndurunum, og vardveita þá sanntrúndu, svo sem sitt eigindómsfólk, ad þeir inngeingid fái í þad fyrirheitna Canaans land, til eilífrar qvöldar. — En hvad vil eg hér um tala! hvör er hæfur til ad opinbera þann óranfakanliga ríkdóm Christs, edur útskýra þann allan skilníng yfirstígandi dýrdargjædi, sem í honum búa? Sjálfir einglarnir, og andar þeirra algjörliga réttlátu á himnum skoda hann og dást ad honum med fullri forundrun og tilbeidslu um alla eilífd. Já himnaríki yrdi ecki himnaríki, ef þeir ecki feingi ad sjá Christum þar, sitjandi sem einn konúng, í sinni fullkomnu dýrd, á sínu heilaga fjalla Zion. Látum oss þessvegna geyma eilífdinni frekari útskíríngu þessa leyndardóms,] hvar vér, gégnum allar hennar óreiknanligu aldir, finna munum, ef oss audnast þar ad sjá hann, nýar og nýar orsakir, til ad dást ad hans persónu og dýrdarríkdóms óransakanligleikum; hvad oss vissuliga audnast mun, ef vér hér í heimi, í lifandi trú, kappkostum ad færa oss í nyt Jesú nádarríkdóms gjædi, sem oss, í hans evangelío ríkugliga frambjódast,

til vorrar andligrar og eilífrar velferdar. Gud og fadir drottins Jesú Christs veiti oss þá luckn, ad verda í þeirra flocki annars heims, sem bædi ráss ad hans guddómliga dýrdarríkdómi, og þar med uppausa af honum óseigianligan lsgnud og farsæld eilífliga! Amen!

* * *

Vér viljum þá í Guds nafni skoda þang blessunarríku nót, sem vér í þessu lífi hafa meigum af því ad sjá og skoda Jesúm Christ, svo sem það Guds lamb, sem heimsins syndir hefur burtu-borid, til undirbúníngs eilífra nota, af þeirri sömu skodun. Þessvegna ávarpa eg ydur mínir samsyndarar, med eptirfylgjandi spursmálum:

1. O manneskja, ertú þvílík ein sem finnur hjá þér eitt hardt steinhjarta, sem eckert gétur klöcknad edur hryggst, út af öllum þeim píslum, sem þú ollad hefur Jesú med syndum þínum? Þú finnur ad þínar gédshræríngar eru dofnar og tilfinníngarlausar, svo þú gétur ecki uppvakid neinar þær hugleidíngar í hjarta þér, sem verki med þér einn sáran samvitsku stíng útaf syndum þínum! Til þín vil eg einna heldst heimfæra ord vors heilaga texta, svo sem hid kroptugasta medal til ad smelta hjarta þitt. Lít híngad og sjádú þad lambid Guds! Hugleidtú, trúdú og heimfærdú til þín, hvad þér verdur hér fyrir sjónir sett, og sannarliga má hjarta þitt þá hardt

vera, ef þad kléknar ecki vid ad skoda Christum á þennan hátt. Þad er skrifad (Zach. 12, 10.) um hann: „þeir munu siá hann, hvern þeir hafa giegnumstúngid, og þeir munu sorga yfir honum, eins og einn sorgar yfir sínum einka syni; og menn munu svo sárhryggiast yfir honum, svo sem einn hryggist yfir sínu frumgietna barni." Æ horsdu á Guds son, leiddan „eins og lamb til slátrunar" og þad þín vegna, eins audvirdiligs og saurugs syndara! Siá þú hans dýrmæta fórnarblód, sem úthellt var fyrir þig! haldtu þaunkum þínum föstum vid efni þetta; hugsadu um þad, hvílíkur sá var, sem hér giördist eitt fórnarlamb; fyrir hvörra skuld þad var, sem hann leid allar sínar óútskíranligu píslir; hvörsu hógværliga, hvörsu súdliga hann þoldi öll reidislög Guds og manna, midt í sínu allraíullkomnasta sakleysi, allt til þess, ad hann yrdi slátradur í þinn stad. — Siá! hann var giördur ad synd þín vegna, sem þó siálfur einga synd hafdi, til þess þú, sem ecki ert nema eintómt ránglæti, mættir verda réttlæti Guds í honum (2 Cor. 5, 21.) O! hvör mundi hafa nockru sinni elskad þig, á þann hátt, sem Christur hefur þad giördt? hvör mundi hafa gétad útstadid þá hörmúngu, sem Christur útstód þín vegna? Mundi fadir þinn, edur ektaqvinna þín, sem hvílir á þínu skauti, edur vinur þinn, sem er eins og þín önnur sál, hafa látid sér lynda ad lída slíkt vegna þín — og þó þad ecki hefdi

átt ad vera nema ad eins um eina stundu — ad lída, segi eg, þad sem Christur fyrir þig leid, þegar «hans sveiti vard sem blódhniklar, þeir ed fellu á jørdina" (Luc. 22, 44.) Ney, siálfur þú mundir aldrei hafa viljad smacka þann kaleik, til ad frelsa þitt eigid barn, sem Christur, inn til sídurstu dreggja, drack i botn þín vegna, þegar hann á krossinum hrópadi: «Gud minn, Gud minn! hvarfyrir hefur þú yfirgéfid mig?" O! adgiæt nú hvørsu heitt hann elskadi þig! Í sannleika ad segja, hafi bjørgin brostid sundur vid hans píslardauda, þá hlýtur hiarta þitt ad vera hardara enn klettur, ef þad viknar og klöcknar eckert, vid adra eins sjón, sem þessi er. Festu því augu þín um hríd, á þessu sjónarspili, og mun þad þá ad líkindum hræra þitt hjarta!

2. O, þú synduga manneskja! en framar spyr eg þig: er syndin allt of léttvæg í þínum augum, og er hægt ad koma þér til ad drygja hana, nær sem freistíng uppáfellur? Æ! komdu þá híngad, og siádu þá lambid Guds! og — mun þér ecki mögulig verda, ad gjøra þér framar slíka þánka um syndina, eptir þad þú med álúd hefur þannig sett þér Christum fyrir sjónir. Því siá, hér má siá hvad stóran betalíng þurfti fyrir syndirnar! Giæt ad, hve mikid þad kostadi Guds son ad fridþægja fyrir þær? hvørsu hann kom í heim þennan, svo sem eitt lamb, bundid böndum þess ómbreitanliga Guds úrskurdar, ad deya fyrir syndirnar! Hvørsu hann

kom frá skauti födursins, svo sem þinn borgunarmadur, og þad med því ad leggja sitt eigid líf í sölurnar! Hvörsu hönd guddómligs réttlætis úthellti hjartablódi þessa flecklausa lambs, til ad samþægia fyrir óréttinn, sem syndir þínar hafa gjört á Guds hluta; og seigdú mér, getur þú þá framvegis álitid syndina, sem einn léttvægan hlut? Gud forbjódi þad! Syndir þínar kostudu í rauninni Christs blód, hvörs einasti einn blóddropi er meira gildis, enn blód allra Adams barna, og villtú samt og ádur ecki afneita þínum girndum, og standa á móti einni freistíngu hans vegna? Sjá þú þad lambid Guds, sem slátrad var fyrir þínar syndir, og muntú aldrei framar alid géta þvílíka þánka um syndina.

3. Ert þú, o manneskja! spyr eg þig enn framar: í anda þínum lítilsigld og óttasleigin vegna þinna þúngu og margföldu misgjörnínga; edur ætlardú ad sökkva í örvæntíngu, fyrir þad ad byrdi og þúngi synda þinna, legst svo frekliga á sálu þína? Þessi ord eru þá eitt algildt hjartastyrkíngarmedal, til ad endurlífga þitt vonartæpa hjarta, þessi ord: «Sjá þad lambid Guds, sem burtuber veraldarinnar syndir!" Því ef lambsins blód orkar þess ad burtutaka syndir heimsins, þá getur þad ogsvo burtutekid þínar syndir, já þó á þér lægi ein heil veröld full af syndum. Þessvegna álít þú Christum ad eins, svo sem frá eilífu áqvardadan til ad vera vort fridþægíngar-

offur; því «Guð faðir hefur innsiglað hann" sem helgaðan til fórnar í vorn stað, í tímans uppfyllíngu; já «Christur vort páskalamb er fyrir oss offraður" (1 Cor. 5, 7) og er af feðurnum meðtekinn með stærstu ánægju og velþocknun, já rétt «sem einn sætleiks ilmur" fyrir hönum (Eph. 5, 2.) Og Guð, sem einn skuldakrefjari móti oss, eptir sínu lögmáli, hefur opinberliga réttlætt Jesúm, og sagt hann lausan af borgunarskuldbindíngunni vor vegna, þegar hann uppreisti hann frá dauðum (1 Tim. 3, 16. Joh. 16, 10.) Og lokstins skaltú álíta Jesúm, þetta Guðs lamb, svo sem núverandi á himnum, hvar hann fyrir Guðs augliti birtist vor vegna, svo sem eitt lamb, hvört slátrað verið hefur (Op. 5, 6.) hvar hann á sér ber augljós kénnimerki síns dauða, og sýnir þaug framm fyrir Guðs augliti, sem hinar allra kröptugast hrærandi orsakir, til að útvega fyrirgefníngu og miskun hans fólki til handa. Yfirvega, segi eg: þessa hluti trúliga, og muntú komast að raun um, að eingin hlutur hefur stærri krapt, til að endurlífga þitt hugskot, mitt í því að tilfinníng syndarinnar skélfir það og sundurknosar.

4, spyr eg þig: ertú manneskja hrædd og hugdeig, svo þér er hætt við að flýa krossinn, og þú þessvegna ert óvær til að bera og útstanda nockrar töluverdar þjáníngar fyrir Christs sakir? O! sjáðú þá lambið Guðs, sem þín vegna bar

þá allra þýngstu víslabyrdi, á sálu og líkama! Sei þér fyrir sjónir, hvad óvidurqvæmiligt þad er, ad fyrst hann bar svo miklar þjáníngar þín vegna, ad þú skulir þá ecki afborid fá lítilvægi þeirra, fyrir hans skuld! Því hugleidtú, hvad er í mannanna reidi varid, hjá reidi þess stóra og skélfiliga Guds? Þar ad auki, Christur var eitt saklaust lamb, og vann ecki, fyrir sína eigin persónu, til ad bera hina allra minstu lídun edur þjáníngu; en þú hefur unnid til ad snarast í helvíti; og eingu ad sídur ægir þér ad þola eins augnabliks mótkast. Hvörnig kemur þad til, ad þar ed hann leid svo mikid fyrir þína skuld, ad þú skulir þá ei géta lidid neitt hans vegna? Sannarliga hefur hann, midt í því hann leid fyrir þínar sakir, gefid þér eitt eptirdæmi, „ad þú skyldir eptirfylgja hans fótsporum" (1 Pet. 2, 21.) Og hvad eru þó vorar þjáníngar í samburdi vid Christs píslir, hvörki í tilliti tegundar né tröppu? ad eg ecki tali um þeirra óvidjafnanligasta verdugleika. Eingu ad sídur eigum vér þó med hönum ad lída, ef vér viljum med hönum ad ríkja; því ef vér erum plantadir med hönum til líks dauda, þá munum vér ogsvo í upprisunni hönum líkir verda (Róm. 6, 5.) Látum oss þá med hönum krossinn þola og foragta smánina, sökum þess fagnadar, sem oss fyrirsett er ad keppast eptir, og fyrirheitid ad vér hreppa skulum!

5. Sækir þig, kjæra manneskja, vil eg einn spyrja: óþolinmædi undir þeim þjáníngum er þú lída hlýtur, er þér hætt vid gédgremju í mótlætinu, og vill hjarta þitt svella af hefndargirni undir ránglæti því, sem þú af mönnum lídur? Eg rádlegg þér: sjádú lambid Guds, hvørsu hann „eins og mállaust lamb fyrir þeim sem þad klippir, upplauk ecki sínum munni" gïegn sínum qvølurum (Es. 53, 1.) Og hvørnig kemur þad þá til, ad þú gétur eingan hlut umborid møglunarlaust? Hvørsu hógvær var Christur — þad lambid Guds — þegar hann leid hin mestu rángindi móti sér, af syndurunum, og þú skyldir þó vera eitt ljón í grimdinni móti þeim, sem lítid eitt gjøra á hluta þinn? Hann umbar þolinmódligu þad sem hann ecki hafdi tilunnid, en þú ert óþolinmódur ad umbera þad, sem þú sjálfur bakar þér ad lída. O, ad þú lærа vildir, ad líkjast Christo, framar enn ádur, í øllu þínu andstreymi og þjáníngum!

6. Í sídasta máta spyr eg þig: ertú manneskja, vegna vantrúar þinnar efablandin um Guds fyrirheit? Getur þú ecki hvílt sálu þína vid ord fyrirheitisins, sökum þess þitt eigid vantrúarfulla hjarta býr yfir óverdugri tortryggni gïegn Gudi, um þad, hvørt hann geti edur vilji uppfylla þaug og láta þaug vid þig nockurntíma framkoma? O! sjádú þá lambid Guds Jesúm Christ! Eda „eru ecki øll fyrirheit Guds, já og Amen í hønum, til allra þeirra sem á hann trúa?" (2 Cor.

1, 20.) Eda hefur Gud lofad þér nockru því, sem dýrmætara sé enn svo, ad lambsins blód, sem úthellt var, til ad kaupa þér slíkt til handa, sé ecki fullgildt til betalíngs þar á móti? Eda er ecki Christur sjálfur, hvörn Gud gaf til þess ad deya fyrir oss, uppfyllíng þess allrastærsta fyrirheitis, sem Gud hefur mannesskjum nockrusinni lofad? Og med því Gud er búinn ad uppfylla slíkt fyrirheit, hvör orsök er þá til ad reingja hann um uppfyllíngu hinna annara, sem þó er minna í varid? Því seigir ritníngin: „ef Gud þyrmdi ecki sínum eingétnum syni, heldur gaf hann út fyrir oss alla, hvörsu mun hann þá ecki gefa oss fúsliga alla adra hluti med hönum?" (Róm. 8, 32.)

Sjáum nú, christnir menn: þvílík ómetanlig not, sem ádur er sagt, gétum vér haft af því, ad skoda Jesúm undir líkíngu „þess Guds lambs, sem burtuber heimsins syndir." Þvílíkt skodan mun best géta smelt vort harda steinhjarta, brynjad oss móti freistíngum til syndanna, hughreyst oss giegn örvæntíngu, gjördt oss þolinmóda undir krossinum, mýkt sinni vort til þeirra sem oss rángt gjöra og styrkt trú vora til Guds fyrirheita. O, temjum oss þá þvílíkar hjartahrærandi íhuganir um Guds son, svo hans persónu verdi oss sem elskuligust, hans fridþægíng sem dýrmætust og hans eptirbreitni sem yndisligust; þá mun oss lokfins í eilífdinni audnast sú lucka ad verda í

þeirra hóp, sem Jóhannes heyrdi og sá tilbidia þetta lambid Guds, med þessum hátignarfulla lofsaung: »verdugt er lambid, þad sem slátrad er, ad medtaka krapt, og ríkdóm, og vitsku, og styrk, og æru, og prís, og lof!" Amen! Amen!

---

Útmálan Jesú elsku til idrandi syndara, er, í trúnadar trausti hans forþénustu, leita hans nádar,

útlögd úr dönsku af Hallgrími Jónssyni, djákna vid Þíngeyra klaustur.

---

Lagid: Í Babylon vid vötnin straung.

---

Syndþjádum Jesús svalar best,
þá særir medvitund lasta,
ef þeir af hjarta' og alhug mest
ódygdum frá sér kasta;
veröldin þessum ónóg er,
sem afneita sínum girndum hér;
lögmáls nær skelfíng skekur,
og eilíf þegar ógnar mest,

athvarf það eina finna best:
að „Jesús þá meðtekur.“

Kjærleiki heitur knúði hann,
að koma til vor á jörðu;
svo af oss sviptist eilíft bann
og straffi' ei mættum hörðu;
hann vora borið hefur neyð;
að hrifi oss frá andarneyð;
á krossinum uppgaf anda;
forlíkast gjörði faðirinn,
að feingi staðist syndarinn
millum hans hjálparhanda.

Hans náðarfaðmur opinn er,
iðrandi sálum öllum,
frísun í dauða og dómi tér,
frá döprum sorga göllum;
með sínu blóði hann best afþvær
brotin og syndir allar þær,
sem ángra sála þjáða;
auglýsa lætur anda sinn,
að hann — miskunar brunnurinn —
muni þær mildast náða.

Á sínum ástar örmum þær
inn í Guðs ríki leiðir,
friðþægður þeirra faðir kjær,
faðminn líknar útbreiðir;
Guðs barna rétt þeim gefur af náð,
gleður þær himneskt hjálparráð,
eign þeir er Guð líka;
með fegnuði þeirrar fá að sjá
fagrar dyr lífsins opnar stá
og sálar svölun ríka.

Ó, að vér feingjum skugað
ástar þel Jesú blíða!
Honum er ætíð umhugað
að sýna miskun þíða,
tíndum sauðum samt trúlyndum;
til náðar tók hann Zachæum,
Maríu mjúkast huggar;
hennar afþerrði harmatár,
hana þá grættu meinin sár;
því syndugum sífst viðsluggar.

Honn leit til Peturs hýrt í náð,
þá herra sinn hafði' afsvarið

himnesk réttlæti' og hjálparráð,
hjartað fèck syndum marið;
harmþrúngnum sálum heimi í
hann aldrei bregðst, því hvern dag ný
hans miskun hreldum veitist;
eins og hann var í útlegð hér,
allt eins í himna dýrð hann er;
ástin hans aldrei breitist.

Komi því syndum særður hver,
sem ei vill lestum unna,
til hans, sem einga hrekja fer,
á hans fund ev slýa kunna!
Einginn glatast um eilífð má,
er hann vill náð og miskun tjá;
lát því af lasta veigi!
Lít til Jesú er láusn þér fann
lýð sem ydrandi syndþjáðann,
yfirgiefa vill eigi.

Kom þángað sálin þjáð og mædd,
þig hvaðan einginn hrekur!
Af synd þó skjálfandi sért og hrædd,
samt Jesús þig medtekur;

sjáðu hann þier býður hjartað sitt,
hjartað hann ikka girnist þitt,
fagnandi kýs þig finna;
eptir þier leitar ástin hans;
innstú til náðar gjafarans!
Síst mun hans líknin linna.

Seig ei vonlausinn: ofstór er
illgjørd mín Guði' á móti,
hans náð og gæzkum hefi eg hier
hafnað med vondskú hóti.
Ef hatar synd af hjarta nú,
med hreinni idrun og sannri trú,
hans ástin ei vid tefur;
ef miskun hans treystir umfram allt
efalaust hana finna skalt,
eins sem hann heitid hefur.

Seig þó ei: eg vil enn sem fyr
eins lifa' og girnd mín krefur,
sinnar náðar dýrmætu dyr
Drottinn ad læsa tefur.
Medan hann kallar, kom og heyr!
kom strags! nú hann þier eptirþreir

ad efla heill andar þinnar;
ef nú frambodna' ei agtar náð,
hvíst er sídar verdi hún tjád.
Jesús þig fljótt vill finna.

O, mildi Jesú! eptir þier
innleid oss í þitt ríki!
Gief ad þinn fögnud sáum vier
frír vid andar sýki!
Nær sál vor þjáist þúngri pín,
þitt henni mætast hjálpráð sýn,
sem hana meigi afsaka!
Unn oss, ó gjædskan eilífligl
ad mættum seigja, hvør um sig:
"mig Jesús vill medtaka!"

---

Kaupmannahøfn 1820.
Prentad hjá Þorsteini E. Rangel.